# STAFRÓFSKVER

## HANDA BÖRNUM.



AKUREYRI 1861.

Prentað í prentsmiðju Norður- og Austurumdæmisins, hjá H. Helgasyni.

a b c d e f g h

i j k l m n o p

q r s t u v x y

z þ æ ö

| a | á | au | b | c | d | ð | e | ei |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | | öi | bje | sje | dje | eð | | |

| ey | é | f | g | h | i | í | j | k |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| ei | je | eff | ge | há | | | joð | ká |

| l | m | n | o | ó | p | q | r | s |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| ell | emm | enn | | | pje | kú | err | ess |

| t | u | ú | v | x | y | ý | z |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| tje | | | vaff | eks | | | seta |

| þ | æ | ö |
|---|---|---|
| þorn | | |

A B C D E F G H

I J K L M N O P

Q R S T U V X Y

Z Þ Æ Ö

Hljóðstafir:

a á e i í o ó u ú y ý æ ö

Tvíhljóðar:

au ei ey

Samhljóðendur:

b c d ð f g h j k l m n p q r s t v x z þ

Aðgreiningarmerkin

, Komma
; Semíkolon
: Kolon
. Punktur
? Spurningarmerkið
! Upphrópunarmerkið.

## Indverskir tölustafir:

0, 1, 2, 3, 4, 5, 6, 7, 8, 9, 10, 11, 12, 13, 14, 15, 16, 17, 18, 19, 20, 21, 22, 23, 24, 25, 26, 27, 28, 29, 30, 40, 50, 60, 70, 80, 90, 100, 101, 102, 103, 104, 105, 106, 107, 108, 109, 110, 120, 130, 140, 150, 160, 170, 180, 190, 200, 300, 400, 500, 600, 700, 800, 900, 1,000, 1,005, 1,016, 2,024, 1,030, 1,041, 1,056, 1,067, 1,078 1,089, 1,999.

## Latínu tölustafir:

I, II, III, IV, V, VI, VII, VIII, IX, X, XI, XII, XIII, XIV, XV, XVI, XVII, XVIII, XIX, XX, XXX, XL, L, LX, LXX, LXXX, XC, C, CC, CCC, CD, D, DC, DCC, DCCC, CM, M.

## Eins atkvæðis orð:

Nef. Nös. Vör. Hár. Bak. Tær. Bók. Rúm. Bær. Hús. Búr. Bás. Ull. Tog. Lár. Roð. Sól. Jel. Dyr. Dýr. Fax. Soð. Sót. Mús. Jól. Vín. Guð. Egg. Hey. Meis. Naut. Baul. Kinn. Tönn. Hönd. Háls. Knje. Rist. Nögl. Brjóst. Lopt. Gólf. Sæng. Stag. Borð. Fjöl. Hjól. Skál. Skot. Stóll. Mjólk. Brauð. Smjör. Kjöt. Korn. Tólg. Ljós. Vatn. Gull. Járn. Leir. Kind. Lamb. Skip. Sjór. Jörð. Steinn. Fjall. Land. Hrís. Barn. Fugl.

## Tveggja atkvæða orð:

Aug-a. Eyr-a. Tung-a. Höf-uð. Lær-i. Mag-i. Fing-ur. Fót-ur. Góm-ur. Enn-i. Hak-a. Var-ir. Vest-i. Peis-a. Húf-a. Hatt-ur. Bux-ur. Sokk-ur. Lepp-ur. Klút-ur. Svunt-a. Skyrt-a. Bæk-ur. Snæld-a. Kist-a. Kist-ill. Ask-ur. Kníf-ur. Kodd-i. Vegg-ur. Rúð-a. Glugg-i. Graut-ur. Rjóm-i. Eld-ur. Poll-ur. Pott-ur. Aus-a. Tunn-a. Lyk-ill. Hyll-a. Stól-bak. Rúm-fjöl. Fót-skör. Járn-karl.

## Þriggja atkvæða orð:

Hand-ar-bak. Höf-uð-skel. Aug-a-steinn. Augn-a-brýr. Hár-lokk-ur. Gagn-aug-u. Hand-legg-ur. Fót-legg-ur. Hnapp-a-gat. Vest-is-bak. Háls-klút-ur. Höf-uð-fat. Ull-ar-lár. Sæng-ur-föt. Rekk-ju-voð. Skeið-ar-blað. Papp-írs-örk. Bæj-ar-hús. Dyr-a-hurð. Stig-a-gat. Bað-stof-a. Eld-húss-dyr. Lamp-a-ljós. Pen-ing-ar- Brodd-staf-ur. Herð-ar-trje. Sum-ar-gjöf. Sól-ar-lag.

## Fjögra atkvæða orð:

Dán-u-mað-ur. Sum-ar-dag-ur. Katt-ar-aug-a. Sjó-far-end-ur. Ull-ar-kamb-ar. Silf-ur-hnapp-ar. Arn-ar-væng-ir. Engl-a-mynd-ir. Sól-ar-ljós-ið. Æsk-u-mað-ur. Varð-halds-eng-ill. Yt-ri-hólm-ur. Snjó-a-vet-ur. Pásk-a-vik-a. Ösk-u-dag-ur.

## Fimm atkvæða orð:

Tind-fjall-a-jök-ull. Tröll-skess-u-sæt-i. Tungl-kom-u-há-tíð. Mann-skað-a-byl-ur. Harð-ind-a-kafl-i. Fjall-veg-a-fje-lag.

## Sex atkvæða orð.

Ís-a-fjarð-ar-djúp-ið. Ey-ja-fjall-a-jök-ull. Breið-a-merk-ur-sand-ur. Vatn-a-jök-uls-veg-ur.

## Barn og mús:

Eitt sinn var barn, sem sat á stól, og hjelt á bók, sem það las í; þá kom þar að mús og gekk að ask, sem stóð við rúm og mjólk var í, sem það barn drakk, er það var þyrst. Nú var sú mús mjög svöng og þyrst, og vill því fá sjer ögn af mjólk. Hún stökk þá upp á barm á ask, en sá að hún gat ei náð í mjólk, því sjálf var hún svo stutt, og gat ei teygt sig nóg; hún stökk þá í botn og stóð í mjólk upp í kvið. Nú sá það barn, sem las í bók, og leizt ei vel á þá mús, sem drakk frá því. Það hljóp að ask, sem mús var í, og tók í hans lok, svo það fjell. Þá hló það barn að mús, sem komst nú ei burt og stóð í mjólk. Mús sat þar svo um stund og drakk eins og hún gat. En nú vill barn sjá, hvað um mús er, tók í lok á ask og lauk því upp. Þá stökk upp

mús, en barn hrökk frá. Mús hljóp út í skot og sást ei meir, en barn tók bók og las sem fyr.

## Hrafn og mús:

Eitt sinn sat hrafn út á vegg og hjelt á fisk í klóm, og var net flækt um hans fót. Þá sá hann mús, sem stóð þar hjá og drakk vatn úr poll. Heyr, mús mín góð! veit mjer nú hjálp með munn og tönn, kom þú til mín og slít það net burt, sem fast er um minn fót. Mús hljóp þá til, tók með tönn í net og sleit það burt, svo hrafn varð laus. En svei þeim hrafn, sem þá flaug á mús og reif á hol, svo hún ljet sitt líf.

## Kisa og krukka:

Ein-u sinn-i var kis-a mjög þyrst, og kom þar að, sem stór krukk-a stóð, er var mill-i hálfs og fulls af mjólk. Þá stekk-ur kis-a upp á krukk-u barm-inn, og horf-ir nið-ur í han-a. Seg-ir hún þá við sjálf-a sig: „það er svo djúpt nið-ur að drop-a þess-um, að jeg get ekk-i náð í hann, til

að sval-a þorst-a mín-um; en kis-a gaml-a hef-ir leng-i ráð und-ir rif-i hver-ju.“ Hún hleyp-ur nú þang-að sem hún viss-i að var mik-ið af litl-um stein-um. Hún tek-ur einn og einn af þeim í senn í munn sjer, stekk-ur með þá upp á krukk-u barm-inn, og læt-ur þá fall-a nið-ur í botn. Að þess-um stein-a burð-i var hún, þang-að til mjólk-in hafð-i hækk-að svo upp und-ir barm-a, að hún gat vel náð til að drekk-a. Þá lá vel á kis-u, því nú drakk hún sín-a lyst, og gekk svo burt og sagði: „Sko göml-u kis-u, hvað hún var ráð-ug, að henn-i skyld-i kom-a slíkt í hug!“

## Helgi litli:

Einu sinni var drengur einn, sem hjet Helgi. Hann hafði gaman af að hræða fólk og gjöra því bilt við, með því að látast hafa meitt sig; stundum ljezt hann, til að mynda, detta ofan stigann í baðstofunni, og æpti upp yfir sig; stundum hljóðaði hann upp, og sagði að hundur hefði bitið sig, eða hann hefði fengið sting undir síðuna, og margt því um líkt. Lengi

fram eptir ,trúðu menn honum, og ruku upp að hjálpa honúm; en hann rak þá upp skellihlátur, og sagðist hafa gjört þetta að gamni sínu, til þess að gjöra þeim bilt við. Hann fjekk fyrir þetta margar ávítur og hirtingar, en það kom fyrir ekki. Helgi fór sínum sið fram, eins og áður, og menn urðu þessu svo vanir, að það hirti loks enginn um, þótt hann hljóðaði eða kallaði. En hann fjekk og að kenna á því á endanum. Svo stóð á, að ás einn lá yfir sund nokkurt milli bæjarhúsanna, og var hátt undir ásinn. Einu sinni var fólkið allt inni í baðstofu; tók Helgi þá upp á því að ganga eptir ásnum. Þetta tókst honum vel nokkrum sinnum og varð hann þá öruggari og ógætnari; varð honum þá fótaskortur, svo að hann datt niður af ásnum, og gekk hægri fóturinn úr liði. Hann hljóðaði þá upp og kallaði, svo það heyrðist inn í baðstofuna; en fólkið skipti sjer ekki af því; það hjelt, að Helgi mundi gjöra það einungis til að hræða sig, eins og vant var. Þegar hann sá, að enginn kom, minntist hann þess, að hann hafði svo opt ginnt aðra, og skamm-

aðist sín þá svo mjög, að hann þagnaði. Þarna lá hann í sundinu og komst ekki burtu nærri því heilt dagsmark, þangað til vinnukona nokkur kom að honum af tilviljun. Hann var þá borinn inn í baðstofu, og síðan var farið að gæta að, hvað að honum gengi. Sást þá, að fóturinn var genginn úr liði og ákaflega bólginn orðinn. Presturinn bjó á næsta bæ, og var þangað örskammt; var hann undir eins sóttur, og kippti hann fætinum í liðinn, og veitti það þó örðugt vegna bólgunnar. Helgi kenndi þá svo mjög til, að hann æpti hástöfum, og herti sig þó upp svo sem hann gat, lá hann síðan rúmfastur eitthvað í mánuð, og var lengi haltur á eptir. En eptir þetta áfall varð Helgi allur annar maður; ginnti aldrei framar nokkurn mann nje hræddi, og varaði hvert barn við að gjöra það.

## Nokkur Hallgríms mál Pjeturssonar.

1. Árla dags alla morgna við orð guðs haltu ráð.

2. Á kveldi hverju þú koma skalt, kvöldreikning við þig sjálfan halt.
3. Í hreinni iðran þú hvern dag vak, herskrúða drottins á þig tak.
4. Lát af illu, en iðka gott, allan varastu hræsnis þvott.
5. Viltu þig þvo, þá þvo þig hreint, þel hjartans bæði ljóst og leynt.
6. Fæðu þína og fóstrið allt fyrir það guði þakka skalt.
7. Bænarlaus aldrei byrjuð sje burtför af þínu heimili.
8. Bæn þína aldrei byggðu fast á brjóstvit náttúru þinnar.
9. Varastu þig að reiða ríkt á ríkismanna hylli.
10. Farðu varlega, fallvölt er frænda og vina trúin.
11. Ókenndum þjer, þó aumur sje, aldrei tillegg þú háð nje. spje.
12. Vinn þú það ei fyrir metorð manns að missa guðs náð og vinskap hans.
13. Vinn það ei fyrir vinskap manns að víkja af götu sannleikans.

14. Hygg að og herm hið sanna, hve nær sem til er reynt.

15. Hræðst ei hótanir manna, halt þinni játning beint.

16. Athugagjarn og orðvar sjert, einkum þegar þú reiður ert.

17. Á vald guðs allar hefndir fel, heipt lát ei hug þinn villa.

18. Í guðs ótta frá þjer glæpum hrind, góð vertu öðrum fyrirmynd.

19. Lausnara að líkjast þínum líf er þjer allra mest.

20. Í drottni ef viltu deyja, drottni þá lifðu hjer.